# MYNDABÓK

handa

# BÖRNUM.

---

# I.

# MYNDABÓK

handa

# BÖRNUM.

I.



KAUPMANNAHÖFN.

Prentuð á kostnað E. Jónssonar, hjá Louis Klein.

1853.

Aðaltilgangur kvers þessa er að vekja lestrarlöngun barna með myndunum, skemmta þeim og fræða þau um ýmislegt. Ef hinir fullorðnu segja þeim nokkuð meira um myndirnar en hjer er gjört, þá verður fróðleikurinn því meiri, og undir eins verulegt gagn kversins.

**Útgefandinn.**

# YFIRLIT EFNISINS.

## 1. Misþirming á bændum.

Á elztu tímum voru bændur mikils ráðandi í Danmörku, en það fór af, þegar fram liðu stundir; höfðingjarnir tóku af þeim öll ráð, og fóru með þá nærri því eins og þræla; þeir áttu ráð á að selja þá eins og fjenað. Bændurnir máttu ekki flytja sig burt frá jörðunni, þar sem þeir voru fæddir, og urðu að þrælka fyrir höfðingjann, eptir því sem hann vildi, og ef þeir sýndu nokkra óhlýðni, máttu þeir eiga víst að sæta svívirðilegustu meðferð af höfðingjanum og hjúum hans, og tjáði þeim ekki að kvarta um það, því þeir fengu ekki að njóta rjettar síns. Á myndinni sjerðu bónda, sem ríður tvovega á borði, sem er reist á rönd, það er randhvasst að ofanverðu, og tvö þung lóð eru bundin neðan við fæturna á vesalings bóndanum, til þess að því sárara sje að sitja á borðinu. Þannig urðu bændurnir opt að sitja margar klukkustundir. Þetta var kallað „að ríða trjehestinum.“

## 2. Frelsisstólpinn.

Ánauð bændanna ljetti af, þegar Friðrik konungur hinn sjötti tókst á hendur ríkisstjórn með Kristjáni 7., föður sínum. Hann aumkaðist yfir bágindi bændanna, og sveið það sárt, að sú stjett, er yrkir jörðina, og ber umhyggju fyrir hinum mikilvægustu þörfum lífsins, skyldi eiga að búa við sömu kjör og dýrin. Hann gjörði því að lögum, að bændurnir skyldu vera jafn-frjálsir eins og aðrir borgarar í landinu, og höfðingjarnir ekki mega fara illa með þá, og ef þeir gjörðu það, skyldu þeir sæta þungri hegningu eptir lögunum. Við þetta varð alþýðan glöð, og til að votta gleði sína og þakklæti, reistu bændur heiðursstólpann, sem er fyrir utan vesturhlið Kaupmannahafnar; hann er sýndur á þessari mynd. Alþýðuvinurinn, Friðrik konungur sjötti, lagði sjálfur undirstöðusteininn með mikilli viðhöfn 31. dag júlímánaðar 1792.

## 3. Köfunarmaðurinn.

Hjerna sjerðu skringilega mannsmynd niðri á sjóarbotni. Þú sjer, að hann er vel út búinn. Á höfðinu og um mittið hefur hann spengur úr sterku pjátri, og er í ermastuttri treyju og brókum úr vatnsheldu leðri. Þessi föt eru fest við pjáturspengurnar, og eru hólkar um skálmarnar að neðan og ermarnar að framan, svo ekki komist vatn á milli. Út úr höfðinu eru tvær leðurpípur, sem ná upp úr vatninu, og dregur maðurinn anda gegnum þær: endann á annari hefur hann í munni sjer, til að geta andað að sjer, en upp um hina fer loptið, sem hann andar frá sjer. Við fötin hans hanga blýlóð, til að halda honum niðri. Þegar maðurinn vill fara upp, leysir hann lóðin af sjer, og hnýt· í þau öðrum endanum á snærinu, sem hann heldur á, en hinn endinn er ofansjóar. Síðan kallar hann upp um pípuna til lagsmanna sinna.

## 4. Snjókerlingin.

Líttu á kerlinguna, er hún ekki digur? Hún er öldungis meinlaus, þó hún sje svona illileg ásýndum. Hún er allsber, eins og þú getur sjeð, en henni kólnar ekki fyrir það, þó að hún standi úti í frostinu, og haglið lemji hana utan. En ef að kemur sólskin og hiti, þá á hún bágt: augun detta þá út úr hausnum, og hún verður öll ekki annað en tómar holur og sprungur, þó hún sje núna nógu sljett; síðan hættir hún að geta staðið, og verður loksins að vatni.

## 5. Storkarnir.

„Nú er sumarið komið og hiti og sólskin, og við erum líka komin aptur að vitja um hreiðrið okkar, við höfum munað eptir því, þó við höfum verið lengst suðri í löndum í vetur. Nú held jeg að sje mál til komið að hlynna dálítið að hreiðrinu, áður en jeg verp.“ Þau tíndu nú saman hey og kvisti, og gekk það fljótt. Síðan sat móðirin á hreiðrinu í þrjár vikur, og þá fór að heyrast skrítinn söngur, en þegar að var gáð, voru það fimm storkaungar, sem ekki voru enn orðnir fiðraðir. Þeir glenntu upp ginið, og tístu af sulti.

## 6. Kóngsgersemin.

það ber við á stundum, að menn verða aldrei stærri en 3 eða 4 ára gömul börn, þó þeir verði gamlir. Slíkir menn eru kallaðir dvergar. það er mælt, að til hafi verið dvergar, sem ekki hafi orðið fullra 18 þumlunga háir, en optast eru þeir þó 30 eða 40 þumlunga, eða hjer um bil 1½ alin á hæð. Í fornöld notuðu höfðingjar og ríkismenn þessa dverga til gamans á heimilum sínum, og því voru þeir kallaðir kóngsgersemar. Voru þeir þá búnir á ýmsan hátt, stundum eins og þjónar, stundum eins og englar, o. s. frv., og látnir spranga til og frá um borðið með krásirnar. Stundum voru þeir og faldir niðri í skálum eða kerum, og jafnvel innan í ýmsum krásum, sem þeir hlupu þá út úr, þegar minnst varði, og spruttu fram á borðið til gamans fyrir gestina. — Svona stendur og hjer á í myndinni, að kóngsgersemin kemur upp úr einni skálinni, í því lokið er tekið af henni, og gestirnir stara á það öldungis hissa.

## 7. Dvergur.

Hjer sjerðu mynd af karlmanni og kvennmanni, sem einu sinni voru hjón. Konan var meðalkvennmaður að stærð, en maðurinn dvergur. Nafn hans var *Wybrand Lolkes*; hann var fæddur í Hollandi árið 1750. Faðir hans var fátækur sjómaður. *Wybrand* var látinn læra úrsmíði í *Amsterdam*, og er hann var fullnuma settist hann að i *Rotterdam*. þar kvæntist hann og átti mörg börn með konu sinni, og voru þau öll vel vaxin, og ekki minni að vexti, en menn eru almennast. — Seinna ferðaðist *Wybrand* með konu sína um Norðurálfuna, og sýndi sig á mörgum leikhúsum, eins og náttúruafbrigði. Á þessari ferð aflaði hann sjer ærins fjár, og fór hann með það til ættjarðar sinnar, og bjó þar efsta hlut æfi sinnar með hyski sínu.

## 8. Hundurinn Tryggur.

Myndin, sem hjer er, er af hundi, sem hjet Tryggur, og bar það nafn með rjettu; því hann lá í 16 ár, nótt og dag, á leiði einu í kirkjugarði, sem er í Stokkhólmi, höfuðborg Svíþjóðar. Enginn veit hver undir leiðinu liggur, en líklega er það sá, sem hundinn hafði átt. Menn reyndu opt að hæna Trygg að sjer, og ná honum af leiðinu, en það heppnaðist alls einu sinni. Var hann þá lokaður inni nóttina eptir, en um morguninn var hann nærri því búinn að rífa sig út í gegn um hurðina, og undir eins og upp var lokið, hljóp hann burtu og lagðist á leiðið. En á hverjum degi brá Tryggur sjer burtu frá leiðinu dálitla stund, til þess að fá sjer nokkuð að jeta í slátrarabúðum þeim, sem næstar voru kirkjugarðinum.

## 9. Skógarmaðurinn.

*(Orang-Utang.)*

---

Sá er einn dýraflokkur, sem menn kalla apa, og eru tegundir þeirra margar og mjög ólíkar hver annari. Sumir apar hafa engan hala, en sumir langan; sumir eru á stærð við lítinn kött, sumir eins stórir og maður, eins og sá, sem myndin hjerna er af. Hann á heima á nokkrum hinna indversku eyja. Sjest hann þar opt á gangi innan um skógana, upprjettur og með staf í hendinni, eins og ferðamaður. Þessi api er líkastur manninum í vexti af öllum dýrum, og fyrir þá sök er hann kallaður skógarmaður. Hann er sterkur og hugaður vel, og verst hraustlega, þegar á hann er leitað. Allur er hann loðinn, og fremur stríhærður; tamur, námfús geðgóður, djúpraddaður og ófríður sýnum.

## 10. Aparnir.

Aparnir eru forvitin dýr og námfúsir; þeim er mjög gjarnt á, að apa allt eptir, sem fyrir þeim er haft, og því eru þeir kallaðir apar. Einu sinni var varningsmaður á ferð. Hann lagði sig til svefns undir eik nokkurri, þar sem apar sátu uppi í. En undir eins og aparnir sáu, að maðurinn var sofnaður, þutu þeir ofan úr eikinni og fóru að forvitnast um varningsbagga hans. Þeir leystu upp bagg-ann,¹ og fóru nú að skoða varninginn og fletta honum sundur. Einn apinn fann þá spegil (skuggsjá), og fór þegar að skoða sig í honum, eins og sjá má af myndinni, sem hjer stendur. Annar hitti á tóbaksskrín, tók í nefið, og fer að hnerra. Þriðji hitti á sokka, sem hann fór að fara í, o. s. frv. — Þegar varningsmaðurinn vaknaði aptur, þutu aparnir burtu, og lá þá allur varningurinn á sundrung milli trjánna eptir þá.

## 11. Asninn.

---

Hinir ótömdu eða villtu asnar eru bláleitir eða gulleitir á lit, og ganga þeir eins og stóð í stórum hópum um eyðimerkurnar í miðhluta Austurálfunnar. Menn hafa opt kallað asnann latan og snerpulítinn, en það er ekki; því í heitu löndunum er hann fjörugur og lífaður, engu síður en hesturinn, og þolgóður mjög. Ösnumjólk er holl, einkum fyrir brjóstveika menn, og vegna þess að asninn þarf mjög lítið og ódýrt fóður, þá er og varla svo fátækt heimili til, t. a. m. á Spáni og í Sardiníu, að það eigi ekki asna, líkt og hjá oss er um hesta. Asninn er og engu síður þarflegt dýr en hesturinn.

## 12. Múlasninn.

Til eru fleiri en ein tegund af ösnum. Sú er ein tegund þeirra, sem kölluð er múlasni, en það er sá asni, sem á hest fyrir föður og ösnu fyrir móður, og múldýr kalla menn það, er asni á með hryssu. Múldýrið er gagnlegt mjög, einkum í fjall-löndum, þar sem vegirnir liggja upp eptir snarbröttum hlíðum, og utan í hamrabrúnum, eða á tæpum gljúfrabörmum, því múldýrið er svo fótvisst, og lipurt, að það fer um allt þetta eins og sljettan völl. Því verður og ekki mikið fyrir að stökkva yfir gjár og gljúfur, þegar það má ráða, og eru því ferðamenn vanir að sleppa við það taumnum, þar sem slíkir vegir eru.

## 13. Ljónið.

Hjer er nú mynd af hinu tignarlega, svipmikla ljóni, dýrakonunginum sjálfum. Ljónið er sterkt og stórt; það verður $2^1/_2$ til 5 álna langt, er gult á lit, og lifir í Suðurálfunni og sumstaðar í Austurálfunni. Öskur þess er svo ógurlegt, að dýr merkurinnar hrökkva saman af ótta, er þau heyra það, og mennirnir skelfast einnig við það. Afl ljónsins má ráða af því, að það hleypur með hinn stærsta uxa í kjaptinum, eins og köttur með mús. En þó afl þess sje svona mikið, ræðst þó ljónið aldrei framan að bráð sinni, heldur leggst það í leyni, og stökkur á dýrið í því augnabragði, sem það fer fram hjá. Í þessu líkist ljónið því kettinum, og það er einnig líkt honum í vexti. En ljónið er ekki eins undirförult og slægt eins og kötturinn. Ljónið verður tamið, og er þá mjög elskt að húsbónda sínum og tryggt.

## 14. Tigrisdýrið.

Tigrisdýrið er enn stærra, að minnsta kosti lengra, en ljónið. Að ofanverðu eða á bakið er það rauðgult, með misstórum svörtum þverrákum. Neðan á hálsinum og á kviðnum er það hvítt; halinn er ljósgulur með 15 svörtum hringum. Tigrisdýrið lifir, eins og ljónið, einungis á kjöti, en það er hættulegra en ljónið, því það er blóðþyrst mjög. Ljónið fer aldrei til bráðar, nema þegar það er hungrað, og ræðst aldrei á menn, þegar það hefur eitthvað annað. Tigrisdýrið drepur þar á móti hvað, sem fyrir því verður, og hlífir ekki mönnum fremur en dýrum; það er jafnvel af öllu kjöti sólgnast í mannakjöt. Það lifir í suðurhluta Austurálfunnar, og er örðugra að temja en ljónið. — Í suðurhluta Vesturálfunnar er sú tegund Tigrisdýra til, sem kölluð er *Jaguar*, og er hún nærri því eins stór og eins skæð fyrir menn, eins og hin almennu Tigrisdýr.

## 15. Úlfaldinn.

Úlfaldinn er að sínu leyti eins þarfur mönnunum, eins og ljón og tigrisdýr eru hættuleg fyrir þá, og skaðvæn. Hann verður $3^1/_2$ alin á hæð, lifir af grasi, og á heima í hinum heitu löndum í Austur- og Suður-álfu. Eru úlfaldarnir þar tamdir þúsundum saman, og notaðir á ferðum um hinar stóru sandeyðimerkur, sem víða eru í löndum þessum, ýmist til áburðar eða reiðar. Úlfaldinn er sterkur mjög, og getur borið margar vættir í einu á bakinu. — Á eyðimörkunum eru varla neinstaðar hagar og því síður vatn, og því verða hestar þar alls ekki notaðir, þó þeir kynnu að þola hitann. Úlfaldinn er þar á móti svo skapaður, að hann þarf mjög lítið fóður, og getur verið vatnslaus í langan tíma. þegar hann drekkur, þá drekkur hann mikið í einu, og geymir vatnið í eins konar sarpi, þar sem hann getur síðan náð því, þegar hann vill. Í þessum sarpi geymist vatnið óskemmt í marga daga, og ber það því opt við, að ferðamenn slátra úlfalda á eyðimörkum þessum, þegar að þeim þrengir vatnsleysið, og drekka úr sarpinum.

## 16. Strúturinn.

þessi mynd er af hinum stærsta fugli, sem til er. Hann er hjer um bil 4 álna hár, og meir en 10 fjórðunga þungur. Háls hans og fætur eru nærri því snoðnir, en úr vængjum hans og stjeli fást hinar dýru strútsfjaðrir, sem hafðar eru til kvennskrauts. Strúturinn lifir einungis á sandeyðimörkunum í Suðurálfu heims og Arabalandi. Eggjum sínum verpur hann í sandinn, og eru þau bleikgul á lit; hvert egg er á stærð við barnshöfuð og 6 marka þungt. Strúturinn getur ekki flogið, en hleypur þar á móti fljótar en nokkur hestur. Meðan hann hleypur, veifar hann vængjunum sjer til ljettis. Strútinn er hægt að temja, og stundum er hann jafnvel hafður til reiðar, en hann hleypur svo hart, að ef sá sem á honum situr er óvanur, þá missir hann andann.

## 17. Kólíberfuglinn.

---

A næstu mynd á undan fjekkstu að sjá hinn stærsta fugl, sem til er, en á þessari þar á móti hinn minnsta af öllum fuglum. Nokkrar tegundir þessara fugla eru ekki miklu stærri en randaflugur; en þeir eru eins fallegir eins og þeir eru litlir. Þeir hafa langt nef, hvasst, tungan er klofin, og er að sjá eins og tveir smáir tvinnaendar, á fiðrið gljáir í sólskini, og er þá að sjá alls konar fegurstu liti, eins og á gulli og gimsteinum, og hafa því konur fuglinn heilan og óskertan fyrir eyrnagull. Kólíberfuglinn á heima í suðurhluta Vesturálfu; hann er snarpur vel, þó han sje lítill. Verstu óvinir hans eru kóngulær, sem reyndar eru miklu stærri en þær, sem þú hefur sjeð, því þær geta orðið þrír þumlungar að lengd, og máttu því ekki láta ganga yfir þig, þó að þessi litli fallegi fugl hafi ekki við þeim hinum ljótu kvikindum.

## 18. Höllin Veiðiborg.

(*Jægerspriis.*)

---

Höll þessi og lendur þær, er henni fylgja, liggja á tanga þeim við Ísafjörð á Sjálandi, er gengur fram í sjó milli Hróarskeldufjarðar og Holbekksfjarðar. Umhverfis höll þessa er mjög fallegt, bæði aldingarðar og skógar. Í einum skóga þessara, er heitir Lundur, ljet Friðrik, erfðaprins, faðir Kristjáns konungs hins 8., reisa upp steina til minningar um mikla menn, norska og danska. Fyr meir hjet höll þessi *Abrahamstrup*. Miðhluti aðalhússins og stærsti turninn eru eptir af hinni gömlu höll *Abrahamstrup*. Hliðarhúsin hafa verið byggð á ýmsum tímum. Í landinu umhverfis höll þessa eru margar menjar úr heiðni; þar er og eik ein, furðu merkileg, sem hefur verið hjer um bil 3 álnir að þvermáli og 25 skref ummáls. Hún er að öllum líkindum 1000 ára gömul. Nú er hún öll orðin hol innan, og sjást að eins nokkrar laufgaðar greinar efst á henni.

## 19. Dómkirkjan í Hróarskeldu.

Þessi kirkja er eitthvert hið elzta og tígulegasta hús í Danmörku. Vilhjálmur biskup ljet reisa hana fyrir hjer um bil átta hundruðum ára, og er hún að utanverðu 140 álna löng og 45 álna breið. Hæð hennar frá gólfi upp í rjáfur er 41 alin. Turnarnir eru æði háir og sjást langar leiðir frá. — Í kirkju þessari eru svo margir hlutir fágætir, að ætti maður að lýsa þeim öllum, þá yrði það nóg í margar bækur aðrar eins og þessa. En svo sem eitt hið eptirtektaverðasta skal þess hjer getið, að í þessari kirkju er mikið af hinni dönsku konungaætt grafið, og standa margar af líkkistum þeirra í þar til gjörðum kapellum á gólfinu, og getur hver fengið að sjá þær, sem inn kemur og vill.

## 20. Nefapi.

---

Api þessi hefur fengið nafn sitt af nefi því hinu mikla, er hann hefur, og sem aðgreinir hann frá öðrum apategundum. Hann er og öðru nafni kallaður *Kar*, af orgi því, sem hann rekur upp, helzt kvöld og morgna. Á bakinu er hann brúnleitur á lit; á höndum, fótum og kviðnum er hann gulgrár, og í framan svartleitur. Hann er hjer um bil 2 álna hár. Nefapinn á helzt heima á indversku eynni *Borneo*, og lifir hann þar í stórum hópum. Hann er villtur mjög og djarfur, og ekki gott að temja hann.

Neðri myndin sýnir apann, sem er að fara í sokkana varningsmannsins, sem áður er minnzt á.

## 21. Náttapi.

Náttapa kalla menn þá apategund, sem helzt er á stjái á næturnar, en sjaldan um daga. þeir þola ekki dagsbirtuna, en sjá þar á móti ágætlega á næturnar, og tindra þá augu þeirra eins og í ketti. þeir eru og líkari köttum en öpum, og eru öðrum öpum meðal annars frábrugðnir í því, að þeir lifa helzt af skorkvikindum, fuglaungum og öðrum smádýrum. — Sú náttapategund, sem hjer er sýnd, á heima í suðurhluta Vesturálfunnar, og er einkum í þykkum skógum, þar sem ár og fljót eru nærri. Hann er nokkuð stærri en köttur.

Neðri myndin sýnir apa, sem menn hafa kennt að borða með spæni.

## 22. Strútur og Snati.

Snati: Hvað gjörðirðu af bógnum, sem þú náðir áðan hjá henni Guddu, lagsi? Þú hefur þó efalaust gengið vel frá honum, og geymir hann almennilega, svo enginn nái honum; því slíkan mat mundi margur vilja kjósa sjer. Þú mátt trúa mjer fyrir því, hvar þú faldir hann.

Strútur: Nei, jeg á það ekki undir; því það gjörir enginn, sem frómur er, að grennslast eptir, hvar aðrir eigi muni sína.

Snati fór nú burt og leitaði þangað til hann fann bóginn bak við heygarðinn. Tók hann þá hiklaust til matar síns, en varaði sig ekki á því, að Strútur hafði allt af haft gát á honum, og tók nú hæverskulaust í lurginn á þjófnum.

## 23. Hrafn og tóa.

---

Hefurðu heyrt söguna um hrafninn og tóuna? Tóan er kæn og ráðug, eins og þú veizt, en krummi fremur heimskur og grunnhygginn. Einu sinni kemur lágfóta þar að, sem krummi situr uppi í trje nokkru með kjötstykki í nefinu. Hann hafði krytjað sjer það einhverstaðar, og ætlaði nú að gjöra sjer gott af því. Tóa sá þetta, og af því hún var glorsvöng, þá langaði hana í bita, en sá engin ráð til þess, að ná því, nema með brögðum. Hún setur þá upp mesta sakleysissvip og fer að skjalla krumma, lofa hann fyrir vöxt hans, fríðleika, hug og dug, þangað til á endanum segir hún: ,,En yfir því get jeg grátið, að þú skulir vera raddlaus.“ Krummi vildi ekki láta kalla sig raddlausan, sperrir upp ginið til að krunka, missir kjötið, eins og það er, en tóa hendir það á lopti, og hleypur burt.

## 24. Úlfurinn og Storkurinn.

---

Úlfurinn er bráðsólgið dýr, átvagl og óþakklátur. Einu sinni sem optar náði hann sjer sauðkind, og reif hana í sig gráðuglega, svo það stóð í honum bein. Hann æpti þá hástöfum og bar sig aumkunarlega. En í sama bili kom storkurinn þar að sem úlfurinn var, og þar eð storkurinn var læknir dýranna í þessu hjeraði, þá hjálpar hann úlfinum þegar; setur upp gleraugu, stingur nefinu ofan í kverkar honum, og dregur beinið upp. Að því búnu mælist storkurinn til þóknunar hjá úlfinum fyrir viðvikið, en úlfurinn svaraði: „Snáfa þú burtu, heimskinginn þinn, og þakkaðu guði fyrir, að jeg beit ekki höfuðið af þjer áðan, þegar þú stakkst því upp í mig!“ Storkurinn labbaði þá burtu með tóman vasa, en lærði það um leið:

Að laun heimsins er óþakklæti.

## 25. Völundarhús.

---

Þessi mynd er uppdráttur af eins konar völundarhúsi eða völundarstíg skammt frá Lundúnaborg. Tvö trje standa þar á velli nokkrum, úti undir berum himni, en í kring um þau liggur stígur, sem á báða vega er girtur með smáviði. Í myndinui er stígurinn sýndur með hvíta bilinu milli svörtu strykanna, og er það fljótsjeð, að þar eru margar þvergirðingar á. Nú er það listin að komast rakleiðis inn að trjánum, án þess að reka sig nokkurn tíma á þvergirðingu. Sá sem það gjörir er hafður að gamni, og þó ber það opt við, því hjer er einatt mikill fjöldi manna á gangi að skemmta sjer.

## 26. Kakaótrjeð.

Hjer er mynd af Kakaóviðargrein með blöðum, blómi og ávexti. Sjerstaka myndin neðsta er ávöxtur, sem búið er að skera í sundur. Kakaóviðurinn á heima í miðhluta Austurálfunnar, og verður hann þar 6 eða 7 álna hár. Blómin eru smá, ljósrauð með gulum deplum. Ávöxturinn er áþekkur agúrku, en er raunar pungur, sem að innan er greindur í 5 hluti, og eru baunir í þeim. Baunirnar liggja í hvítri, sætri mjólk, og eru 15 eða 20 í hverjum pungi. Þegar ávöxturinn er fullþroska, taka menn baunirnar úr pungnum, þurka þær og senda út um öll lönd. Úr þessum kakaóbaunum eru sjókóladekökurnar búnar til, og allir vita hvað við þær er gjört.

## 27. Kaffitrjeð.

Kaffibaunirnar eru kjarni úr ávexti trjes þessa, sem getur orðið hjer um bil 10 álna hátt. Ávöxtur kaffitrjesins er ber eitt á stærð við stórt bláber. Innan í hverju beri eru tvær baunir, og snúa þær flatvegunum saman. Þegar berið er fullþroska, þá er það rautt á lit; hýðið, sem utan um það er, er þá safalítið, og er það aldrei notað til neins. Þegar berið er látið liggja í sólskini, þá þornar hýðið fljótt og skrælnar, og er síðan hreinsað frá kjarnanum í þar til gjörðri kvörn. Kaffitrjeð á í raun og veru heima á Arabalandi, en er flutt þaðan og gróðursett á ýmsum öðrum heitum löndum. Vex það nú mjög í Brasilíu, og flyzt þaðan mikið af kaffi, en bezt er það samt frá *Mokka* á Arabalandi

## 28. Syndafallið.

Allir menn, sem á jörðunni lifa, eiga ætt sína að rekja til einna hjóna: Adams og Evu. Guð setti þau í aldingarðinn Unað (*Eden*) í Paradís. Aldingarðurinn var fullur af alls konar ágætum ávöxtum og aldinum, og þessa máttu þau njóta eptir vild sinni, nema af einu trje, skilningstrjenu góðs og ills, sem hinn góði guð bannaði þeim að borða af ávöxtinn, og lagði hegningu við. En höggormurinn var slægastur allra dýra, og hann tældi þau til þess að neyta af ávexti þessa trjes, í því skyni að þau mundu þá verða vitrari en áður. Þetta atvik á myndin að sýna; höggormurinn vefur sig utan um trjeð, Eva tekur ávöxtinn af því, bítur í hann og gefur Adam manni sínum með sjer. En guð refsaði þeim báðun, og rak þau burtu úr Paradís.

## 29. Kain og Abel.

---

Svo hjetu synir vorra fyrstu foreldra. Abel var ráðvandur og guðhræddur, þess vegna var guð með honum, og ljet allt takast vel, er hann tók sjer fyrir hendur. Kain var vondur, og þess vegna gekk honum ver en bróður hans, fór hann því fram, án þess að betrast, og fjekk öfund á bróður sínum, og lagði á hann hatur; jafnvel datt honum í hug að drepa hann. Drottinn varaði hann við að drýgja svo ógurlegan glæp, en Kain skeytti ekki um það, og einu sinni, þegar hann var með bróður sínum úti á akri, þá drap hann hann. En Kain varð fyrir hegningu drottins, hann hafði hvergi nokkurn frið, hann þorði ekki að sjá foreldra sína, og flúði þess vegna loksins burt í óbyggt land.

## 30. Hlýðni Abrahams.

Gyðingar eiga að rekja ætt sína til manns nokkurs, er hjet Abraham; hann var mjög ráðvandur maður. Hann átti son, einan barna, að nafni Ísak, og þótti mjög vænt um hann. Einu sinni ætlaði guð að reyna, hvað Abraham væri hlýðinn, og bauð honum að drepa Ísak son sinn, er honum þótti svo vænt um; og þó að Abraham fjelli það þungt, ásetti hann sjer þó strax að hlýða boði drottins, fór með Ísak upp á fjall eitt, og var þegar búinn að bregða knífnum, til að reka son sinn í gegn. Þá heyrði hann rödd guðs frá himni, er sagði: „Vinndu ekki syni þínum mein, jeg ætlaði að reyna hlýðni þína.“ Þannig frelsaðist Ísak, og Abraham var nú búinn að votta það, að hann elskaði guð yfir alla hluti fram.

